Þorsteinn Sigurdsson
sýslumadur.

Kh. 1795.

# FÁ-ORD

## ÆTTAR OG ÆFI-MINNÍNG

# ÞORSTEINS SIGURDSSONAR

SÝSLUMANNS OG KLAUSTURHALDARA

FORDUM I MÚLA-ÞÍNGI.







At forlagi hans sona, SIGURDAR og PETURS,

útgéfin og prentud hiá J. R. THIELE i Kaupmannahöfn 1795.

Si prudentia una adsit, jam continuo una cum ea omnes virtutes aderunt.

ARISTOTELES.

Foreldrar Syslumanns *Þorsteins*, *Sigurdr Þorgilsson* og *Herdís Þorvardsdóttir*, biuggu leingstum og sídast á þeim bæ, er heitir *Jörvi*, liggiandi i Haukadal og Qvennabrecku kirkiu-sókn, innan Dala-syslu fyri vestan, hveria jörd þau áttu, og er XXX hundrud at dyrleika.

Ektaqvinna *Þorgils* var *Gudrún Jónsdóttir*; þau biuggu einninn á Jörva, sem og hans fadir *Bergþór Biarnason*, er átti *Sigrídi Olafsdóttur*, Prests á Qvennabrecku, sem átti 26 börn, og var sonr *Brands* Syslumanns i Snæfellsness-syslu, bródur *Marteins* Biskups og *Gudrúnar* ektaqvinnu þess nafnkunna höfdíngia *Dada Gudmundssonar* i Snóksdal. Hann var almennt nefndr *Moldar-brandr*, átti Starrastadi i Kolbeinsstada-hrepp og bió þar; hans kona var *Halla*, dóttir *Olafs* prests *Kolbeinssonar* i Saurbæ á Hvalfiardarströnd. En fadir nefndra systkina, *Brands*, *Marteins* og *Gudrúnar*, var sira *Einar Snorrason*, *Öldubryggiar-skáld*



kal-

kalladr, sem héllt Stadastad og var Officialis i Vestfirdínga-fiórdúngi; en módir þeirra var *Ingirídur*, systir *Stephâns* Biskups *Jónssonar*.

Ektaqvinna *Olafs* prests *Brandssonar* var *Ingibiörg* dóttir *Gudmundar Þorleifssonar* i Stóra-skógi, sem átti *Sigrídi* dóttur *Olafs* prests *Magnússonar* á Stad á Reykianesi. Fadir *Þorleifs* var *Gudmundr* sonr *Andresar* i Kollafirdi, *Gudmundarsonar ríka*, *Arasonar*, sem var bródir *Rafns* Lögmanns *Gudmundarsonar*. Kona *Gudmundar Andressonar* var *Jarþrúdur* dóttir *Þorleifs* Hirdstióra, sonar *Biörns* Hirdstióra *ríka*, sem átti *Olöfu* dóttur *Lopts ríka*, og var sonr *Þorleifs* og *Kristinar* í Vatzfirdi.

Fadir *Herdísar*, módur Syslumanns *Þorsteins*, var *Þorvardr Runólfsson*, *Sigurdssonar*, hvörs Runólfs bródir var *Jón* i Einarsnesi, Syslumadr, *Sigurdsson*, fadir *Sigurdar* Lögmanns, födr-födr *Þórunnar Gudmundsdóttur*, ektahústrúr *Magnúsar* Amtmanns *Gíslasonar*. Sá annar sonr *Jóns*, og bródir *Sigurdar* Lögmanns, var síra *Þorleifr* i Odda, fadir Mag. *Biörns* Biskups á Hólum.

Módir *Herdísar* og qvinna *Þorvardar* var *Þórunn* dóttir *Egerts* frá Snóksdal *Hannessonar*, *Biarnarsonar*, *Hannessonar* Riddara og Hirdstióra yfir Islandi, hvörs fadir var *Egert Egertsson*, norskr Adalsmadr og Lögmadr i Víkinni.

Qvinna *Egerts Hannessonar* var *Halldóra* dóttir *Hákonar*, sem átti *Sólveigu Jónsdóttur Marteinssonar* Biskups; en módur-fadir *Hákonar* var *Þorleifr* Lögmadr *Kortsson*, fadir

fadir *Gudmundar ríka*, er bió i Brokey á Breidafirdi. Fadir *Hákonar* var ſira *Biörn Gislaſon* i Saurbæ, ſem var Officialis i Hólaſtipti og hafdi þar at auk Mödruvalla-Klauſtur til forráda; bródir þeſs nafnfræga höfdíngia *Arna Gislaſonar* at Hlídarenda. En fadir þeſsara brædra var *Gisli Hákonarſon, Hallsſonar, Sveinsſonar, Jónsſonar Lángs* í Axarfirdi, ſem *Lángs-ætt* er frá komin.

Ektaqvinna *Hanneſar Biörnsſonar*, födr-födr *Þórunnar*, módur-módur *Þorſteins* Syſlumanns, var *Gudrún* dóttir *Olafs* frá Geitaſkardi, dóttur-ſonar *Gottſkálks* Biſkups, er var *Gottſkálksſon*, og ſinn uppruna hafdi af ſama adallega gamla Ætt-ſtofni i Norvegi, og ſá loflegi *Hendrich Otto Bielke*, ſem var blár Riddari, og hér Stiptamtmadr yfir Iſlandi. Qvinna *Olafs* á Geitaſkardi var *Steinunn* dóttir *Jóns* á Svalbardi *Magnúsſonar*, hvörs Magnúſar fadir var *Þorkéll Gudbiartsſon*, Preſtr at Laufáſi og Officialis Hóla-ſtiptis. Qvinna *Jóns* á Svalbardi var *Ragnheidur Pétursdóttir, Loptsſonar, Ormsſonar*, er átti *Sólveigu* dóttur ádr-nefnds *Þorleifs* og *Kriſtínar* i Vatzfirdi.

En ektaqvinna *Magnúſar* á Svalbardi var *Kriſtín* dóttir *Eyólfs* Riddara, ſonar *Arnfinns* Riddara, ſonar *Þorſteins* Hirdſtióra *Eyólfsſonar*.

Ektaqvinna *Biörns*, födr-afa *Þórunnar*, módur-módur Syſlumanns *Þorſteins*, var *Þórunn* dóttir fyrrnefnds *Dada* i Snóksdal, *Gudmundarſonar, Finnsſonar*, er átti *Þorunni Dadadóttur*, ſem komin var af *Oddi* Lögmanni *Lepp*.

Bródir

Bródir *Biörns* var *Egert Hannesson*, hér Lögmadr og Hirdstióri, er þeir Engelsku sióreyfarar hertóku á sinu heimili Bæ á Raudasandi 1579.

Ektahústrú födr *Biörns*, *Hannesar* Hirdstióra *Egertssonar*, var *Gudrún* dóttir hins mikla höfdíngia á sinni tíd, *Biörns Gudnasonar* i Ögri. Ektaqvinna þessa *Biörns* var *Ragnhildur* dóttir *Hákalla-Biarna* á Ketilstödum; en qvinna *Gudna* var *Þóra* dóttir *Biörns* Hirdstióra *ríka*, *Þorleifs* sonar og *Vatzfiardar-Kristínar*, dóttur *Biarnar Jórsalafara Einarssonar*, sem sat at Grund i Vatzfirdi, átti þá stórrádu *Grundar-Helgu*, og var sonr *Eiríks* Riddara, er kominn var af *Helga Magra* landnámsmanni. Ektahústrú *Eiríks* Riddara var *Vilborg Einarsdóttir Þorvaldssonar* i Vatzfirdi, er átti *Þurídi* dóttur þess nafnfræga Lögmanns *Snorra Sturlusonar* i Reykhollti, hvörs Snorra módir *Gudny* komin var af *Myramanna-ætt*, og telz at hafa verit hinn siötti frá *Egli Skallagrímssyni*.

Af hvöriu svo fáu, sem at miklu leiti útdregit er úr Ættartölu þeirri sona Syslumanns *Þorsteins*, er hinn mikli frædimadr og vor núverandi verdugi Biskup, *Dr. Hannes Finnsson*, samantók i Kaupmannahöfn árit 1776, þá nægilega siá má, hvörsu Syslumadr *Þorsteinn* af þeim parti tímanlegs sóma, er ættgöfgi heitir, eptir Guds forsión, med þeim hlutdriúgari mönnum her á landi verit hafi.

Fyrir utan *Þorstein* áttu þau *Sigurdr* og *Herdís* 2 sonu, sem á legg komuz, *Þorvard*, sem vard Lögréttumadr,

madr, og *Sigurd*, ſem giptiz, og andadiz í ſtóru bólunni, er hér géck yfir landit 1707 og 1708. Item eina dóttur *Margretu*, ſem áſamt módur ſinni og bródr *Þorſteini* fór auſtr í Múla-ſyſlu 1713, og þareptir vard hin fyrſta ektaqvinna ſira *Hiörleifs Þórdarſonar*, er ſídaſt héllt Valþiófsſtad, og var Prófaſtr i nyrdra parti Múla-ſyſlu.

Þá *Þorſteinn* fór nockut at þroſkaz, er þeſs gétid, at foreldrar hans hafi fliótt mátt formerkia hiá honum meiri framfaraſemi, enn aldri ſvaradi, uppá gáfur og ſkilníng til at nema hvad ſem vera ſkyldi, til munns og handa; en ſamt héldu þau honum á hans uppvaxtar-árum eigi til frekara lærdóms edr menta, enn þá hiá ſlíku í fremri röd veranda gódu bónda-fólki vóru tídkanlegar, og þau ſiálf vaniz höfdu; hvöriu þó ſynaz má at framar valdit hafi þeirra fyritöku- enn efna-leyſi, þar þau vóru eigi einúngis jardeigandi, ſem ádr um gétr, heldr og þar *Herdís* var einhvör hin meſta forſtands-kona, höfdu her at auk ſæmilega búſæld, og vóru jafnan framar veitandi enn þurfandi.

En fyri því hans lyſt var eingu minni, enn hans gáfur, til manndómlegrar eflíngar og athafna, þá tók hann ſér fyri med aldrinum af eiginn innblæſtri, at leita meir og meir þeirrar framfarar, ſem honum eptir þeſſum kríngumſtædum var möguleg, ſamt at ſkilia þat danſka og þydverſka túngumál, heldr og at ná gódum grundvelli og þeckíng í þeim í þann tíd eptir Jónsbók, Receſſum, Réttarbótum og Kriſtinréttum, tídkanlegu lögvíſi og réttargángs

gángs máta; i hvöriu öllu hann, fyri sína óþreytta áſtundan, og eptirgrenſlan hiá lærdum mönnum, nádi ſtórri fullkomnan. En einkum þá hróſadi hann i þann máta ödrum framar *Jóni Magnúsſyni*, bródur þeſs loflega Profeſſoris *Arna Magnúsſonar*, (hvörr *Jón* i þær mundir var Syſlumadr i Stranda-ſyſlu, og hafdi undir eins, vegna Lögmanns *Páls Vidalins*, lögſögn á hendi i Dala-ſyſlu, og verit hefir einhvörr hinn margfródaſti madr hér á landi), fyri þá ſérdeilis födurlega alúd, er hann ſér án verdſkuldunar, af ſinni manngædſku, audſynt hefdi med hans tilſögn, bóka-láni, og undirvíſan i mörgum greinum, en þó einkanlega lögvíſinni.

Þá þeſſi úngi madr *Þorſteinn* nú var ordinn rúmlega tvítugr, hafdi þeſſu i nockr ár framfarit, án þeſs at yfirgéfa ſína foreldra edr þeirra þiónuſtu, heldr ſvoſem í hiáverkum, og var fyri ſitt atgiörvi nafnkunnr ordinn um Veſtfirdínga-fiórdúng, og jafnvel i Nordurlandi, eptir því hann af þáveranda Biſkupi á Hólum Mag. *Birni Þorleifsſyni* hafdi þar um nockra tíma til umráda Hörgárdals umbod; vildi Lögmadr *Vídalín* hafa i fyrſtu fengit hann til Lögſagnara i Dala-ſyſlu, í ſtad ádr nefnds Jóns Magnúsſonar, edr í hans forföllum; en þar ſú rádagiörd fyrir einhvöria grein afſlóſt, og Lögmanninum í þær mundir eigi ſídr mikils vardadi at fá ſér einn duganlegann mann, til adſtodar og fulltíngis vid þat mikla Jardabókar-verk, er honum áſamt Profeſſore Arna Magnúsſyni var af Kónúngi-

núnginum uppálagt, þá leitadiz hann vid at fá *Þorstein* hinu framar til þessarar sysslunar; hvad þó var í fyrstu forgéfins, eptir því þessi þá nylega hiá Biskupi *Vidalín* var búinn at fá nockurt heitord fyrir Hallbiarnareyrar Hospitali, hvört lien hann áleit sér at sönnu eigi sóma meira; en þó varda minna, og hinu varanlegra í framtídinni. En þá Lögmadurinn, med fyrirheitum um gód laun og sína mikilsverda hylli, sídan þetta enn fastlegar ásótti; hvad af því merkilega sendibrefi, er hann *Þorsteini* til Jörva 1707 hér um tilskrifadi, enn giörr siá má *); þá vard þat af, at *Þor-*

*) Brefit er svo látandi sem eptirfylgir:

»Ehruprydde Velforstanduge

»Monsr. *Þorsteinn Sigurdsson*

»Elskulegi vin

»Med kiærleiks þacklæte fyrer sídast, ogso fyrer ágiæta gódvilld vid »mína veiku menn vestan komna, hvad allt jeg vil, eptir veiku »megne til hins besta minnast; vitid, ad sídan vid skildum, er þad »til tídenda, ad nú er sá daudur, er eg þeinkte þá til mín ad fá i »þienustu, þegar þier sögdud nej. Því kiem jeg enn med hina sömu »bæn til ydar: Rádest til mín i Guds nafne næstkomande ár, til »þeirra þienustu-verka, sem eg bad ydur og sagde seinast, ad fylgia »mier ad uppskript Jarda-bókarinnar og annara Commissionis erinda, »en þar á mille so sem gódur fylgdarmadur, sem bæde vil jeg gagns »og sæmdar unna, med þvi móte sem vid um töludum &c. Þar i »móte vil jeg gialda ydur um árid *þriátiu Ríxdala* gyllde, og hallda »ydur þó kost med siálfum mier, en fá ydur bæde þienara og kost-»penínga, þegar annadhvort þarf jeg frá ydur ad víkja, edur ydur »frá mier ad senda i ádurtalinne og þvílíkre þienustu. Hiermed vil »eg vera ydur so einfalldur i rádum og tillögum, sem Gud gefur

 »mier

*Þorsteinn* géck heldr at þessum kostum, og rédiz til Lögmannsins at Vídidalstúngu þat næsta ár 1708, hvareptir hann fylgdi þessum Land-Commissário at Jardabókar uppskriptinni og ödrum Commissións erindum i næstu 4 ár, á hvörra sídasta, nefnilega 1712, hann upp skrifadi alla Múla-

»mier vit á. Ef nú ecki stendur annad i vegi, enn áhyggia fyrir »ydar ehrupryddre módur og systur, þá svipid ydur til fundar vid »mig, og skulud þier sanna, ad eg mun þad úr þvi ráda, sem ydar »gódre módur hugnist vel, og þad so, ad hún meige um fleire enn »einn kost velia, sem þó sieu bodleger. En ef ydur synest i vege »standa umtal vid Biskupenn um Eyrar Hospital, þá vited ad jeg skal »giarnan bót á því ráda. Verded mier nú ad lide, og mun eg þá »ydur aldrei ad ólide verda, og gefed mier svar hier uppá, þad sem »greinilegt sie, nú strax tilbaka med Einare, þá ér hann hverfur »aptur heimleidis frá Búdardal. Virdid vel og látid ad bæn minne. »Ydur og ydar ehruprydda módur og systur qvedium vid Þorbiörg »mín óskum allra heilla og velferla. Adieu

Vídedalstúngu,
d. 4. Decembr. anno 1707.

y. a. t. einf. vel.
*Páll Jónsson Vídalín.*

»Minnist nú á hina fornu frændur ydar, *Runólf* og adra hönum samtída; láted ydur ei i augum vaxa ad voga nockud; margur hefur »sá giæfumadur ordid, sem ei hefur jafnefnilegur verid, og færre »góda menn átt i ætt sinne jafn-nákomna. Opt velldur peníngur »punde; kynne og skie þier hefdud af þessu hagnad einhvörn med »tídenne. Hitt er vijst med Guds hiálp, ad aungvann óhagnad munud »þier af þessum mínum rádum hlióta.

Gude befaladur fyr og sijd.

(Ordriett epter Autographo).

Múla-fyflu, og þetta fitt fídafta verk hiá þeim, fvo vel fem önnur, leyfti hann af hendi til þeffara herra ftærftu ánægiu, og bar þarfyrir úr bytum þeirra beggia innilega velunnan, medan þeir lifdu, fvo fem þau fendibréf nóglega votta, er þeir honum fídan árlega tilfkrifudu.

Nefnt ár 1712, þá hann eptir fyrrfögdu ferdadiz yfir Múla-fyflu og fkrifadi þar Jardabókina, var Syflumadr *Beffi Gudmundsfon*, er héllt midpart fyflunnar og helmíng Skridu-klausturs undirliggiandi jarda med öllum heimagardinum, miög hnígi̇nn á efra aldr; hvad til þefs bar, at hann uppá væntanlegt fampycki Há-yfirvaldanna afftód til *Þorfteins* allri hálfri inntekt af greindum forléníngum, fem og Klaufturfins heimagardi; hvar i móti *Þorfteinn* undirgéckz at annaz öll *Beffa* embættis-verk i þeim 11 þínglögum, er nefndum midparti þá fylgdu, famt faka-fólks hald, þá undir bæri; i hvörs tilliti hann fkyldi til fín taka og eignaz hér at auk allt faka-fallit: hvörir þeirra þannig inngéngnu fkilmálar á þá næftkomanda vetri vóru ftadfeftir af hér þáveranda Stiptamtmanns fullmektugum Vicelögmanni *Oddi Sigurdsfyni*, er i þann tíd fat at Narfeyri, fem og Amtmanns *Müllers* umbodsmanni, Landfógeta *Páli Beyer* á Beffaftödum, hvöria báda hann hér uppá heimfókti, þá nefndir Lands-forftiórar honum og med fama, undir Konúnglega ftadfeftíng, útgáfu *Feftibref* uppá lífstíd fyrir hinum ödrum helmíngi Skridu-klausturs undirliggiandi jarda, fem Syflumadr *Jón Þorláksfon* haldit

 hafdi

hafdi til ſíns daudadags, er innféll á þeſſu ſama ári 1712. Eptir hvört ſvo heillavænlegt útfall at *Þorſteinn* ſvo ſtrax á næſta ſumri 1713 flutti ſig at veſtan med miklum tilkoſtnadi auſtr at Skridu-klauſtri, hvar hann bió til þeſs 1718, þá Syſlumadr Beſſi, fyri þeſs konúnglega Rentukammers tilhlutan, heimagardinn og honum fylgiandi helmíng Klauſtr-jardanna uppgaf vid Syſlumann *Jens Petursſon Vium*, ſem þá og fengit hafdi konúnglegt Exſpectans-bréf fyri ſyſlu partinum, i hvörium *Þorſteinn*, eptir ádr inngengnum ſkilmálum vid Beſſa, lögſögnina þó á hendi hafdi til þeſs 1719. Hvarvid þat ſvo ſkédi, at *Þorſteinn* af ádr greindum lienum héllt nú ecki ödru eptir, enn þeim helmíngi klauſtr-jardanna, er Jón Þorláksſon ádr haldit hafdi; hvör *Þorſteini* ſvo mótdræg umbilltíng má væntanlega þaraf orſakaz hafa, at Konúnginum, ſvovel ſem Rentukammerinu, hefir eigi af vidkomandi Yfirvöldum fullkomin upplyſing þar um géfin verit, hvörſu hans verdſkuldan var nú ſtór ordin, og at víſu miklu heldri enn *Viums*, til at nióta greindra liena, ſem þeſs er nú lengi Konúngſins og réttarins þienuſtu á hendi haft hafdi, fyrſt í þau 4 ár, ſem hann var vid Jarda-bókar ſamteknínguna, og þarnæſt i þau 5 ár, er hann eptir Yfirvaldſins tilhlutan, vegna *Beſſa* Syſlumanns, lögſögnina á hendi haft hafdi i midparti ſyſlunnar; hvad *Vium*, ny-ordinn Undirkaupmadr á Reydarfiardar-höfn og réttargángsſökum at vonum framandi, ecki hafdi til at bera. Hvörs-

vegna,

vegna, þá þessi nú endilega skyldi vid Lögsögninni taka 1719, en sá sig eigi einfærann embættinu forstödu at veita, at hann tók þat til ràds, at giöra þann skilmála vid *Þorstein*, at hann skyldi árlega med sér rída í sysluna, og öllum Syslumanns verkum med sér gégna, eptir því sem hann óskandi yrdi, einnig Lögsögnina med sér hafa, ef þeirra Yfirvöld þat eptirléti: hvarfyrir hann til launa hafa skyldi allann helmíng ágódans, svo vel af því heila Klaustri sem Syslu partinum, svo hvorr þeirra af þessum lienum jöfn not hafa skyldi, eptir jöfnum reikníngi *).

En

*) „I Herrans nafne inngaungum vid underskrifadir soddann giörning „og Contract ockar i mille, sem epterfylger":

„1) Ad jeg *Jens Petursson Vium*, Vice-syslumadur i midparte „Múla-syslu og Klausturhaldare Skridu-klausturs, sem nú hefe alla„reidu á hendur tekist alla lögsögn í tiedum syslu-parte, epter þar „um med ockur Valldsmanninum *Bessa Gudmundssyni* og mier aftöl„udu, og skal hafa þar i mót hans hálfa inntekt, en svara hönum, „Valldsmanninum, árlega hálfu syslu-gialldinu, legg til riettra hel„mínga skipta vid virduglegann Skriduklausturs jarda halldara Monsr. „*Þorstein Sigurdsson* allt þad sem eg kann uppbera meira af Klaustur„jördunum og Syslunne, enn inntekt af þeim helminge Klaustur„jardanna, sem hann helldur, uppstígur ad landaurum edur fiskatali, „af hvöriu eg vil þó fyrst taka so mikid sem mitt liensgialld eptir „Sysluna og klaustrid verdur meira enn hans eptir Klaustur-jardir„nar, so ad hvor ockar hafe jafnmikla innkomst og útsvörun af beggia „ockar forlieníngum, eptir riettvísum reikninge, sem þar um skal „árlega giörast ockar i mille".

„2) Hier

En þá Syslumanni *Þorsteini* tveim árum síðar, 1721, var veittr nordasti partr syslunnar eptir Syslumann *Biörn Pétursson*, sem hann uppgaf vid Syslumann *Þorstein*, svó giördi þessi greind kiör *Víums* til stórmuna léttari, med því at leggia til greindra helmínga-skipta inntektanna þann þessa Syslu-parts afrakstur, er honum tilheyrdi, enn þó

"2) Hier ímót skil eg mier af *Þorsteine Sigurdssyne*, ad hann "sie mier til adstodar i Lögsögnenne, og öllum þeim embættis út-"riettíngum og verkum, sem þar ad lúta, epter því sem hann best "veit og kann, og ríde med mier í sysluna á öll þaug þíng, sem "nockur vandamál til standa, um ad dæma edur i Processa koma; og "þetta standi so óbrigdanlegt af beggia ockar hálfu, so leinge Gud "ann oss öllum lífs-stunda, velnefndum Valldsmannenum *Bessa* "*Gudmundssyne* og ockur bádum".

"En 3) audnist ockur *Þorsteine Sigurdssyne* ad lifa þann dag, "sem Gude þócknast frá þessu stundlega til sín ad kalla ockar vel-"nefndann Velgiörda-födur *B. G. S.* so eg verde virkilegur Sysluma-"dur i ádursögdum Syslu-parte, epter míns allranádugasta Arvakóngs "og Herra þar uppá útgefnu brefe; þá skal *Þorsteinn Sigurdsson* "hálfa peníngana, sem eg þarf fyrir sysluna i festu ad gefa, til láta "mier til medtöku, Sysluna med mier reka, og öllum þeim Syslu-"manns verkum med mier giegna, sem eg óskande verd, án allrar "forsómunar, med kostgiæfne i öllu því, sem hönum er leyfilegt, "einninn Lögsögnina med mier hafa, ef ockar Yfirvalldi þócknast so "vera láta, og annast fánga til helmínga vid mig, ef til falla".

"4) Hier ímót skal hann eignast og uppbera alla hálfa Syslun-"nar innkomst, hvöriu nafne sem heiter, skatta, giaftolla, landskull-"der, fakeyre og vogrek, ámóts vid mig, so ad vid þar epter höfum "jafnmikinn ágóda og inntekt af beggia ockar forlieníngum, Sysl-"unne

þó honum til slíkrar mála-midlunar engin skylda bæri, eptir þeirra ádr-greindum skilmálum; hvad med rétt bródurlegri eining þeirra á milli þanninn vidhiellz i næstu 19 ár, edr þartil 1738, þá er þeir þenna sinn giörníng upphófu, og fyrir þvílík öll vidskipti gáfu hvor ödrum mikit vinsamlega skriflega qvittéríng.

Þá

»unne og Klaustrinu, alla ockar lifdaga upp þadan, med bródurlegum „billegum reikninge á bádar sídur, sem árlega skal giörast ockar á »mille. Hálfu eptergiallde Syslunnar, sem er $19\frac{1}{2}$ Rd. specie, skal »hann árlega til mín svara, fyrre enn hiedan frá er ridid til Alþíngs, »ítem hálfum sakeyre, og vogreka betalíng, edur og take af óskiptu »Syslu gialldenu so mikid sem svarar öllu þessu, en hinu sie skipt i »helmínga ockar i millum, sem fyr er sagt».

»Öllum hier fyrskrifudum skilmálum virduglegs Vice-syslu- »mannsins Mr. *Jens Petursſonar Vìums* er eg i allann máta samþyckur »ordinn, og lofa þá, med Guds fulltínge, ad hallda, og i allann »mögulegann máta med æru og hreinlyndi vel ad efna, so leinge vid »lifum báder, og eg nyt fyrsagdrar midlunar og ágóda af Syslunnar »innkomst, sem hann mier i þessare Contract heitid hefur. En vilie »hann, ad eg sosem Lögsagnare med hönum Syslumanns erindum »giegne, þá tilskil eg, ad hann þar uppá Yfirvalldsins leyfe og sam- »þycke fáe, so ecke til mín kome þar epter ad sækia».

»Öllu framan og ofanskrifudu til óriúfanlegrar stadfestu og fulls »kraptar skrifum vid báder ockar nöfn med eigin höndum hier fyrer »nedan, og áþryckium ockar veniulegum signetum ad Kietilstödum »á Völlum þann 12 Apr. 1719, og eru af þessum Contract 2 Ori- »ginaler eins hliódande sinn hiá hvorium ockar.

*Jens Petursſon Vìum.* (L. S.)

*Þorsteinn Sigurdsſon.* (L. S.)

Þá Syſlumadr *Vium* nú eptir ádr ſögdu hafdi fengit til umráda Klauſturſins heimagard, er allr fylgdi þeim helmíngi klauſtr-jardanna, ſem hann til ſín feſt hafdi eptir *Beſſa;* flutti *Þorſteinn* ſig þadan ad Vídivöllum ytri i Fliótzdal, hvar hann bió i ſamfelld 42 ár, nefnilega til 1760, þá hann á næſta ſumri, eckiumadr ordinn, brá búi á ſínu 82 aldurs ári, og veik til ſonar ſíns Syſlumanns *Péturs* at Ketilſtödum á Völlum; hiá hvörium hann, laus vid þau mæduſömu búſkapar umſvif, allt ad einum litlum jardar-parti i Fliótzdal, á hvörium hann lét nockut af ſínum hiúum og gripum eptir verda, lifdi miög rólega þau 5 ár eigi full, ſem eptir vóru æfi hans.

Frá því árit 1713, at hann flutti ſig at veſtan, og til 1751, at hann uppgaf nordaſta part Syſlunnar vid ſon ſinn *Pétr*, er í þá næſtlidin 5 ár, eptir þeſs konúnglega Rentukammers tilſkickun, hafdi verit hiá honum Lögſagnari; var í Múla-ſyſlu jafnadarlegt gott árferdi uppá landit, og ſvo mikill fiſki-afli, at i Reydarfirdi urdu giarnan 9 til 12 hundrada hlutir á þeirri ſeinni vertíd, ſem reiknadiz frá Michaelis-meſſu og til Jóla, og med vidlíka hætti i ödrum fiördum; hvar af fylgdi velmeigan alþydunnar, og at Syſlumenn þar höfdu gódar inntektir, hvörra þeir og nutu i ſtærſta hóglífi, eptir því þar vóru þá þvílíkar kyrdir fyrir málaferlum, at þeim gafz traudlega orſök optar þíng at halda, enn þá þeir manntals-þíngin ráku, og ſaka- edr óbóta-mál undir báruz, hvör þó næſtum

alltíd

alltíd án ſtefnufara vóru handtérud. Hvarvid, ſem og Syſlumanns *Þorſteins* mikla forſtand i búſkapar-ſökum, þat ſkédi, at jafnvel þó hann, at vonum, efna-hægr væri, þá hann at veſtan kom, einninn mikit koſtadi ſín reiſa, ſem hann, fyrir 2 árum auſtr kominn, árit 1715 giördi til Kaupmannahafnar, i þær vændir at fá konúnglegt Vonar-bréf (Exſpectans) fyrir midparti Syſlunnar; þá bættuz þó med framtídinni honum ſvo penínga-rád, at þegar Kirkiubæar-klauſtr, eptir konúnglegu forlagi, var á Alþíngi til ſölu uppbodit árit 1736 fyrir 1600 Rd., ſvo rédiz hann í þat, eptir nockurra hans gódra vina áeggian, ſem hann og hèr til ſtydia vildu, nefnda penínga ſummu uppá þat at bióda; fyri hvöria þat var og honum, ſem hærſt-bíódanda, tilſlegit. Var hans tilgángr i þeſſu ſá, at hann hugdi ſig á tied Klauſtr at flytia, og Syſludæmit yfirgéfa, ſvo hann i kyrd og róſemd mætti ſína tíd þar útenda: hvör hans áſetníngr þó brázt honum, þar Konúngurinn, á móti von, fann eigi fyrir gott, þetta hans kaup èptir á allranádugaſt at ſtadfeſta. Og á líkann hátt géck þat til 4um árum þar eptir, þá þat hálfa Skridu-klauſtr, eptir Syſlumann *Jens Víum* fráfallinn, var honum á Alþíngi árit 1740 uppá forpagtning tilſlegit, ſem hærſt-biódanda, at Rentukammerit vildi hans bod ári ſídar eigi ſamþyckia, heldr veitti tiedann Klauſtur-helmíng Syſlumanni *Hans Víum*, hvör at ſönnu var til ſtadar á Þínginu, þá uppbodit ſkédi, en vogadi þó eigi at ſídr

ſama ár, því í ſínum ritum at fyrirhlíta vid þat konúnglega Rentukammer, at hann eigi af þeſſa hálfa Klauſturs uppbodi, eptir ſinn fráfallna födur, vitad hefdi, og hér uppá at byggia eitt hærra eptirbod *), hvat honum og luckadiz. Af hvöriu, ſem og því ádr er áminzt, þá ſiá má, hvörſu luckan Syſlumanni *Þorſteini*, i þeim greinum ſem áhrærdi embættis útvegur, verit hafi ærit bágborin, og eigi ſvarat hans atgiörvi, ſem þar af má marka i hvílíku

*) Juſtitz-ráds og Amtmanns *J. Lafrentz* hér ad lútandi bref til Syſlumanns *Þorſteins* frá 25 Julii 1731. "Jeg maae ugierne herved "lade hannem vide, at Syſſelmand *Hans Vium* haver tilſneget ſig "Skrede-Cloſters halve Part, ved en uſandfærdig og vrang Beretning, "i det hand haver tilſkrevet Cammer-Collegium, og klaget ſig, at "ermeldte Kloſter blev ved Auction opbödet til Höiſtbydende, uden "hans Videnſkab, og i hans Fraværelſe, da jeg dog tilböd hannem, "förend Auctionen blev holdt, at byde derpaa, og det ſom meere er, "lod ved Laugmand *Giſleſen* bede hans Svigerfader, at byde derpaa "for *Hans Vium*, ſom undſkyldte ſig, og gav til Svar, at Syſſelmanden *Vium* kunde meget vel leve af de 2de Syſſeler hand havde, og "at hand förſt vilde ſee, hvordan hans Opförſel og Conduite var, og "i Fald, at hand fornam, at det var ham tienligt at have Kloſteret, "kunde hand altid faa det, ſaa ſom Syſſelmanden *Thorſtein Sigurdsſen* "var en gammel ſvag Mand. Imidlertid haver hand ved ſin uſandfærdige Indberetning og 100 Rdlers Faſte tilſneget ſig den Part af "Cloſteret, ſom blev Hr. Syſſelmanden tilſlaget for Aaret 1740 til "1741, og indſtillet til Cammer-Collegii Approbation, om hand for "ſit giorde Bud og 90 Rdr. *Faſte* maatte beholde det ſin Livstid; "hvorpaa formedelſt ovenbemeldte *Hans Viums* uſandfærdige Opdigt "er faldet contraire Reſolution".

líku áliti verit hafi, hvat hans lögvísi og gódrar Landstiórnar þecking áhrærir, at hann var einn i tölu þeirra fiögra heldstu Syslumanna i Landinu, sem Konúngr *Christián 6ti* útnefndi árit 1732 til fulltíngis þá verandi Lögmönnum, *Benedict Þ. s.* og *Magnúsi Gislasyni*, i samantekníng annarar nyrrar Lögbókar; og þá greindu mikla vanda-verki eptir nockr ár var lokit, gaf Lögmadr *Magnús*, er verit hefir einhvörr hinn hyggnasti Höfdíngi i landinu, og i þessari Laga samtekníng var álítandi sem sálin, hans tillögum þat hrós, at þær frá aungum betri komit hefdi*).

Þess er ad framan gétid, hvörsu i Múla-syslu, medan Syslumadr *Jens Vium* og hann höfdu lögsögnina, ecki einúngis uppá árferdit til lands og sióar, hér ein gyllini tíd verit hafi, heldr og uppá fridsemi og rósemd fyri málaferlum og stefnum, sem í þær mundir hér varla heyrduz nefndar; því svosem fólk var eingu sídr ó-efad um hans ástundan og vilia, enn vitsmuni, til at giöra rétt, svo þá nockur þrætu-efni, er jafnan lutu til hans atqvæda, fyrifélla, lét þat sér almennt nægia, hvad hann, sem annar gódr

 vinr,

*) N 4. af Lögmannsins sendibrefi til Syslumanns *Þorsteins* dat. þann 25 Julii 1738.

»Ecki er þat satt, ad ydar Remarquer hafe ei verid adgiættar, »því þær vóru þess verdar. Mest af ydar 3diu og 5tu Bók er inn»komid i Conceptid, en ei yfer 1stu bókina. Eg declarera þad »hreint, ad einginn hefur betre Remarquer gefid enn þier, og þad »hefi eg skrifad Stipamtmanne (*Hendrich Oksen*).

vinr, framar enn Yfirvald, munnlega edr ſkriflega þarum úrſkurdadi. En nefnt ár 1740, þá Syſlumadr *Jens Vium* drucknadi, og ſonr hans Syſlumadr *Hans Vium* var ordinn Syſlumadr i mid- og ſudr-pörtunum, tóku til at giöraz á ſlíkum hans nádum nockur umſkipti, fyrir ymſar óſamþyckis greinir, er milli þeirra urdu, medan þeir i Fliótzdal ſaman vóru; i hvörium, þá þær komu undir þeirra Yfirvalda álit, hans tiedr mótpartr beid þó jafnan lægra hlut.

Hér at auk undirbarz honum i ſínum aldurdómi nockurt þrætu-efni og misklíd vid þá veranda þeſs Iſlendſka Compagnies kaupmann á Vopnafirdi, *Friderich Roſenmeyer*, út af ríngun þeſs iſlendſka ullarvarníngs, er þá fór árlega meir og meir i vöxt hiá þeſſum, ſvovel ſem ödrum Iſlands kaupmönnum; hvar á ofan nefndr kaupmadr því bætti, at ſynia honum úttektar og höndlunar i nefndri kaupſtefnu, undir því réttinda yfirbragdi, at ei ſveitin Fliótzdalr, hvar Syſlumadurinn hefdi ſitt adſetr, og þeſsvegna eigi heldr ſiálfr hann, tilheyrdu nefndu Vopnafiardar diſtricti, heldr Reydarfirdi. En þar Syſlumadurinn gat hér i móti þat ſynt og ſannat, at hann á Vopnafirdi i næſtu 30 ár óſlitna höndlun brúkat hefdi, og at hann vid byriun þeſſa Compagnies hefdi ſér þenna Kaupſtad, eptir Höndlunar-ſkílmálanna leyfi og fyrimælum, útvalit; þá féll hér uppá ſvo látandi hérads-dómr árit 1754: at kaupmadr, ſem þá i næſtu 2 ár hafdi giört hans ſendimenn og vörur aptr-reka, og honum úttektar ſyniat, ſkyldi

honum

honum i bætur og máls-kostnad svara 22 Rd. og hér hiá skyldr vera, honum framvegis höndlunar og úttektar at unna, eptir því sem at undanförnu verit hefdi. At hvöriu skédu kaupmadr, til Kaupmannahafnar heim kominn, á tilhlydilegum stödum sökina enn framar framfærdi, sérílagi áteliandi, at dómurinn af Syslumanni *Pétri*, sem væri sækiandans eginn sonr, affagdr verit hefdi. Ætludu þá margir, at Compagniet edr Kaupmadurinn mundi stefna málinu til ædra réttar, hvad þó eigi framkom.

Þegar Syslumadr *Þorsteinn* árit 1718, sem fyrr er á minzt, flutti bú sitt frá Klaustrinu ad Vídivöllum, var sú byggíng, sem Syslumadr *Jón Þorláksson* fyrrmeir, þá hann á jördinni bió, hafdi þar giöra látid, miög ordin fellileg, og túnit komit i mesta örreyti; en á þessu hvorutveggiu giörduz nú vonum brádar gód umskipti, hvartil, hvad túnit áhrærdi, eigi all-lítid gögnudu þær miklu vatz-veitíngar, er hann at mestu med egin hendi á þad giördi, og hvörra merki lengi munu siàz meiga, eptir því hann var einhvörr hinn mesti atorku- og forstandsmadr i bú-syslu, sem menn i þann tíd vissu af at segia; hvörsvegna at hans búskapr þar var og med miklum blóma, allt þar til honum fóru burdir at hnigna, og þat mikla hallæri hér i syslu byrjadiz árit 1752; hvad þar af medal annars má ráda, at hann leingi tíundadi yfir stórt hundrad hundrada i lausa-fé, og á medan þau ár vidhélduz, héllt tídum í senn 7 til 8 vinnumenn: hvaraf þat fylgdi, at hann i sínum flestu bú-

syslu

fyflu reglum var álitinn fem annat uppfett merki, er allir honum nálægir þrifnir bændur fylgia vildu; hvöriu og at var famfara hiá honum ftór kunnátta og hugvit til margslags fmída og allskyns naudfynlegs verklags, hérlendfkum búfkap þienandi, fem géck fvo vídt, at hann jafnvel á öllum edr fleftum hér þá brúkanlegum qvennlegum handyrdum viffi at giöra fulla fkipan og fyrifögn, hvör hans fullkomnan og eptir á kom Inbyggiurum þeffarar fyflu til eigi lítilla þarfa, fökum hans miklu gódfyfi, þeim hér um at undirvífa, er þat girntuz, þar fumt af þvílíkum liftum var hér fólki ádr ókunnugt.

Hér at auk, eptir því hann hafdi allgóda þecking á fiúkdómum og medölum, fvo kom hann fiölda fólks þarmed til hiálpar, eigi einúngis i þeirra útvortis heldr og innvortis veikindum.

At andlits áfynd var hann vel farinn og med þeim fyrimannlegri mönnum, medalmadr vel fvo at hæd, en nockru framar þrekinn, og at öllu vaxtar-lagi karlmannlegr.

Öll fin verk, en férílagi þau, fem hans embætti fnertu, vandadi hann af fremfta megni, og koftgæfdi ftöduglega, at aldrei i þeim nockrar veilur vera fkyldu; hvad honum og fökum hans gódu vitsmuna ávallt vel heppnadiz. I öllum vidfkiptum var hann fannfynn og billegr; i finum ordum, lofunum og vinfkap vifs, trúfaftr, hreinlyndr, og rádhollr þeim er þefs þurftu og

leitu-

leitudu. I ſínum vidrædum var hann jafnan yfrid ſkemtinn, fyndinn og gagnordr, eptir því ſem kríngumſtædunum i hvört ſinn hagadi, og var eigi ótamt, þá eitthvad broslegt undir barz, at yrkia þarum gamans-víſur.

Hér hiá pryddi hann ſína umgengni med gudrækilegu, ſidſamlegu, og hógværu framgaungu-formi, ſvo utan ſem innan húſs, hvört hann héllt med prydi, og ſtórri áſtundan, at koma hiúum ſínum, er þeſs þurftu, til manndóms og þrifnadar, hvörs þau og all-fleſt ſídan meniar báru. En ſérílagi var hann ſínu heimafólki, ſem og ödrum út i frá, álítandi ſem ein ſtödug fyrimynd uppá máta og hófſemi, er hann brúkadi, bædi i ſínum klæda-burdi, ſem var án alls yfirlætis, og i tilliti embættiſins eigi vidhafnar-minni vera mátti; og eins i mat og dryck, er géck ſvo vídt, at menn viſſu þeſs eigi dæmi, at hann nockru ſinni ölvadr ſiezt hefdi.

Fátæka, ſem hann ſá og viſſi, at ſitt erfidi og biargrædi vel og frómlega ſtundudu, elſkadi hann og virdti, og var vid þá ſömu jafnan ör, liúfr og hagqvæmr i gódgiördum; en því hann hinum lidſinnti, fylgdu giarnan þær forþientu áſkúrur og ſkriptar-mál. Hann uppfóſtradi mörg umkomulaus börn, á hvörra uppfrædíngu til munns og handa hann lagdi þá beſtu áſtundan; og at ſiduſtu gaf hann Annex-kirkiunni at Kétilſtödum á Völlum jördina Sörlaſtadi i Seidisfirdi, VI hundrud at dyrleika, med einu

kúgil-

kúgildi, fyrir utan adrar ſmærri giafir, er hann gaf ymſum i lauſa-fé, og i hans Teſtamenti eru upptaldar.

Þá hann var enn þá innan ſextugs, heimſótti hann ſtór óhreyſti med mikilli brióſt-mædi og biúg i fótunum, hvör vatnſóttar kennimerki honum þó eptir nockur ár ſmámſaman bötnudu; i hvörs ſtad honum, undir áttræds aldr komnum, tilféllu önnur vanheilindi, med heyrnardeyfu og miklum handa-ſkiálfta, ſem honum ſídan fylgdu þad eptir var æfinnar.

Arit 1760, þá hann búit hafdi á Vídivöllum yfir 42 ár, ſem ádr er á minzt, flutti hann ſig þadan til ſonar ſíns, Syſlumanns *Péturs*, ad Kétilſtödum á Völlum, hvar hann eptir nærri 5 ára dvöl, og hæga ſótt, ſem hófz med verk undir hægri ſídunni, og honum héllt vid ſængina rúmlega i 4 dægr, rólega i Gudi burtſofnadi, eptir medtekna heilaga aflauſn og Drottins qvöldmáltíd, þann 13 Martii 1765 i vidurviſt hans Sóknar-preſts, Prófaſtſins ſíra *Páls Gudmundsſonar*, og ſíns fyrnefnds ſonar, á ſínu 87da aldurs ári, þá hann hafdi verit Syſlumadr i nyrdra parti Múla-ſyſlu i 30 ár, og næſta eins leingi á hendi haft Lögſögnina i midparti ſömu Syſlu.

Ektaqvinna Syſlumanns *Þorſteins* var *Biörg* dóttir ſíra *Páls*, er héllt Goddali, hvörs fadir var ſíra *Sveinn Jónsſon* á Bardi i Fliótum i Hegraneſs-þíngi, lærdr og nafnkunnr madr i ſinni tíd. En módir *Biargar* og ekta-

qvinna ſira *Páls* var Þorbiörg *Oddsdóttir*, *Eiríksſonar*, *Odds-ſonar* Biſkups i Skálhollti.

Med þeſſari ſinni ektaqvinnu átti *Þorſteinn* Syſlumadr 3 ſonu, af hvörium ſá eldſti hiet *Jón*, ſem andadiz at Vídivöllum ytri i þeirri mannſkædu landfarſótt, er géck i Múla-ſyſlu um ſumarit 1731, á tvítugs aldri, og einum vetri eptir þat hann var úr Skálhollts-ſkóla útſkrifadr; eitt frábært úngmenni uppá næmi, hvörs höfud-lyſt var eitt kriſtilegt ſidferdi og bóklegar mentir, i hvörium hann, ſvo úngr, og nád hafdi óveniulegri fullkomnan.

Sá annar var *Sigurdr*, fæddr at Skridu-klauſtri 1714, lifir enn nú, og er Gullſmídis-meiſtari, ſem verit hefir *Oldermand* edr Öldúngr fyri Gullſmida-laginu i 18 ſamfelld ár, og nú Capteinn vid þat fyrſta *Borgerſkabs-Compagnie* i Kaupmannahöfn, kallat *Öſter-Compagnie*. Og ſá þridie og yngſti *Pétr*, fæddr at Vídivöllum ytri 1720, ſem eptir födr ſinn var i 40 ár Syſlumadr i nordr-parti Múla-ſyſlu, ad þeim 5 medreiknudum, ſem hann af því konúnglega Rentukammeri var honum adjúngeradr, og er enn á dögum. A milli þeſſara tveggia ſidar nefndu ſona ſinna giördi hann, 10 árum ádr hann andadiz, arfſkipti á feingnu fé og ófeingnu, eptir hvörium ſkiptum hvors þeirra hluti taldiz hér um til 2600 Rdala, at jarda-gótzinu medreiknudu.

Af þeim 9 börnum, sem *Sigurdr* átt hefir med sinni fyrri ektaqvinnu *Maríu*, dóttur *Lauritz Ottesens*, fyrrum kaupmanns á Vopnafirdi, sáluduz 4 á únga aldri, en 5 komuz til aldurs og menníngar; hvör sér öll þat vidurnefni *Thorstensen* gefit hafa. Nöfn þeirra eptir aldri eru:

*Bertha Catrina*, fædd 1743, hvörrar ektamadr er *Christopher Balk*, Gullsmidr og Secund-Lieutenant í fyrrnefndu Austr-Compagnie vid Borgaraskapinn i Kaupmannahöfn, med hvörium hún átt hefir 3 dætur, er lifa; af hvörium ein fyri nockrum árum er gipt einum vel stúdérudum Birki-dómara þar úti á landinu, at nafni *Montage*.

*Þorsteinn*, fæddr 1748, sem er vid handverk födur síns.

*Pétr*, fæddr 1752, sem vard Doctor Medicinæ í Kóngsbergi i Norvegi, samt Professor, og Inspector þar vid Bergverks-skólann, og andadiz þann 19da May 1792, á sínu fertugasta aldurs ári. Vid sínum tveim ektaqvinnum gat hann 7 börn, 4 pillta og 3 stúlkur, sem öll eru á lífi.

*Lauritz*, fæddr 1754, sem i nockur ár var skrifari i því konúnglega Rentukammeri, og nú Skips-sekretéri á þeim konúnglega ſtríds-flota.

*Elisa-*

*Elisabeth Maria*, fædd 1755, hvör nú fyri fiórum árum er búin at missa sinn mann, sira *Eigil Þórhallason*, er fyrst i 10 ár var Prestr og Prófastr i Grænlandi, en sidan Prestr og Prófastr á Fióni i Danmörk, med hvörium henni vard ecki barna audit. Og loksins

*Eigill Daniel*, fæddr 1786 af hans, nú framlidinni, seinni konu, *Else Sophie Cruse*, Commandeur *Cruses* systur; er nú i uppvexti.

Sá sidast nefndi þessara brædra *Þorsteins*-sona, *Pétr*, vard einninn tvígiptr, og átti med sinni fyrri konu *Þórunni*, dóttur sira *Gudmundar Pálssonar*, sem héllt Kolfreyustad, 10 börn, af hvörium á lögg komuz 4, sem i þeirra aldurs röd eru:

*Gudmundr*, fæddr 1748, nú Syslumadr eptir födr sinn i nyrdri Múla-syslu, sem ordit hefir tví-giptr, og med sínum bádum qvinnum átt 12 börn, af hvörium at nú lifa 4 synir og 2 dætur.

*Biörg*, fædd 1749, sem med sínum fyrra manni Syslumanni *Guttormi Hiörleifssyni*, og þeim nú veranda sira

 *Arna*

*Arna Þorsteinssyni*, Presti ad Kirkiubæ og Prófasti i nyrdri Múla-syslu, átt hefir 3 sonu og 3 dætur, er lifa.

*Hólmfrídur*, fædd 1755, hvörrar ektamadr er *Oddr Stephánsson*, fyrrum fullmektugr Hra. Stiptamtmannsins *L. A. Thodals*, sídan Notarius i Yfirréttinum, og Klausturhaldari til Þíngeyra, af hvörra 9 börnum at lifandi eru 2 synir og 2 dætur. Og

*Sigurdr*, fæddr 1759, sem nú er Syslumadr i Kiósar-syslu, og Hérads-dómari i Gullbríngu-syslu.

Eru þá tilsamans 37, sem nú á þessu ári 1793 af nidium Syslumanns *Þorsteins* vitaz lifandi at vera; til hvörra þanninn einúngis at hafa bendt i þessu ágripi, Ritarinn sér duga lætr.

Adr nefnd ektaqvinna Syslumanns *Þorsteins*, *Biörg*, var med hærri medal-qvenmönnum at vexti, og at ásynd hin fyrimannlegasta; hvöriu svaradi og hennar háttsemi i klædaburdi, gést-risni og gódgiördum, svo vid fátæka sem ríka. Eigi heldr skorti hana gott forstand i búskapar sökum, né kunnáttu til allra þeirra qvennlegra hand-idna,

sem

ſem hér þá i landinu vóru tídkanlegar. Allann þann efra part æfi ſinnar var hún þiád af ymislegum innvortis veikindum, og andadiz at Vídivöllum þann 28 Auguſti 1759, á ſinu 75ta aldurs ári, eptir at þau i farſælu og yndislegu hiónabandi höfdu ſaman verit i 47 ár, þá hún var leidd i Valþiófsſtada kirkiu fyri framan kórdyrnar, hvar og hans líkami 6 árum ſídar var nidr lagdr.

At lyktum ſyniz eigi af ſér komit, þeſs hér ſtuttlega at geta: at enn þó Syſlumadr *Þorſteinn*, ſem ſá er enga Þócknan hafdi á nockru fánytu priáli edr vidhöfn, fyri ſinn afgáng ſvo fyrilegdi, at engin Lík-prédikun eptir hann haldin væri; og þar þeſsvegna eigi orſök gæfiz, hans Æfi-ſögu at ſamantaka, og eptir fornri lands-veniu opinberlega at upplesa vid hans jardar-för: ſvo hefir Rithöfundinum, þar hann er einn af hans nidium, ecki at ſídr þótt ſér ſkyldu til bera, ad nockru úr þeſſu at bæta med hér framan-ſkrifudu, (ad hvörs ſannindum mörg bréf, auk ádr talinna, ſamt nockur ſiónar- og heyrnarvitni, fyrir utan hann, enn þá til eru), bædi til vidhalds þeſs framlidna verdſkuldadri æru i gröfinni, og leſendum

og heyrendum til fródleiks, en þó einkum til ánægiu hans ödrum afkomendum, hvörir nú þegar fyri Guds furdúríka forsión, eptir ádr áminztu, sig fótfest hafa eigi einúngis i 3 landsins fiórdúngum og þar nafnkunnir ordnir eru, heldr og i Danmörku og Norvegi sér stadfestur fengit hafa; hvörri sinni svo vídsvegar dreifdu litlu plantan sá Algódi virdiz framvegis mikla blessan at til leggia!



